# Utlegging

á Islendsku

af Avísan

um

# Vaccinatiónina

edur

# Kyrbólu-Setning,

sem

hid kroptugasta Medal, ad frelsa Menn frá Barna-Bólu, edur þeirri sináu Bólu.

---

Prentat i Kaupmannahöfn 1805
hiá Joh. Rud. Thiele.

Vaccinin edur kýrbólan (á Engelsku Cowpox) er sú sýki, sem kýr í vissum plátsum eru undirlagdar, og ei er skadvæn: hún er eiginlega nockurskonar vos, sem almennilegast eru bláleit útlits, er brióstast út um júfurin og einkum spenana; þessi vos hafa ikríngum sig þrota-rœda, sem er meir edur minna stór um sig; þau hafa innan í sér sérlegann vessa, sem upp þornar, med tímalengdinni, í skurn edur skél, og losnar af siálfu sér. Þad ber þó annars stundum vid, ef hinn siúki limur vidqvæmt ertist edur hýfist af klóri edur núuíngi, ad vosid opnast, svellur um þad, edur bólgnar, og leifir meir edur minna sár, sem ilt er vidureignar.

Sá

Sá vessi sem kýrbóluvosid ícér hefir, er stórum fráleitur vog og grófti (pus) edur serhvórium ødrum dýralegum vessa; hann er tárhreinn, gagnsærr, litlaus og nockud vidlodanndi. Settur í lopt, þornar hann skiótt, og verdur, likt eggia hvítu, einslags tegund af gliupri skiel edur storku, sem má bleyta uppí vatni; í stuttu máli: þessi vessi er næm materia, er megnar ad æxla edur útdreifa sýki þessa, ecki einúngis á kúm og ødrum vorum Húsdírum, helldur og á Manneskium. Sømuleidis ber þad vid, ad þeir, sem mjólka hinar sjúku kýr, fá giarnan vos á fingur edur heudur, hafi þeir sprúngur edur kaun á þeim, ef ei hafa ádur bólu fengid; er ad øllu leiti líkiast kýrvosunum og hafa í sér vessa med sama næmum eiginleika, edur sóttar adferli.

Þad hafa menn numid af adgiætslu, ad þær persónur, er þannig af heudiugu hafa aflad sér þessa sjúkdóms, géta ecki áſidan ordid fyrir næmi edur áhrifum Bólusóttarinnar, edur fengid þessa banvænu sýki. Læknir Jenner kénndi ad setia, edur med kunst ad fá mennum þessa sjúkdóms, og auglýsti sina fyrstu tilraun árid 1797.

Frá þeim tíma hafa margar, og med strustu umhyggiu í ymsum lendum gjørdar, tilraunir sýnt, ad kýrbølu-setning gétur um

alla

alla æfi varnad bólu sóttnæmi, ef madur ei var inntekinn og sjúkur vordinn af því ádur, en honum var sett kýrbólan, og menn hafa til fullvissu um þetta vigtuga efni, hleypt bólu sóttnæmi á pær persónur, sem kýrbóla hefir sett verid, med því móti, ad koma bólu materiunni edur vessanum inn undir ytri húdina (Epidermis) á líkama þeirra og þó menn hafi breitt til á hvnsann hátt þar medþ, samt margsinnis itrekad øll þau medøl, sem alla sóttnæmi (edur ad bólan læsi sig úr einum í annann) hefir samt aldrei bóla gétad fengid á þá, sem kýrbólan hefir sett verid. Umfram þessa ómetanlegu gagnsemd, tilbydur kýrbólusetningin oss á margann hátt adrar sérlega vigtugar nytsemdir:

1) Utheimtir hún engann sérlegann undirbúning; enga sérlega umhugan; engi medøl ad hindra afleidíngar þessa sjúkdóms.

2) Pad má brúka hana á øllum alldri, og á øllum ársins tímum.

3) Hún ollir engri landsarsótt (Epdemie) edur útbreidir sig ecki í samlisi manna; þar hún hverki sæst af lopti, klædum, edur þó menn snerti edur komi hvør vid annann.

4) Mátinn ad setia hana, er léttur, sársaukalitill, sem einasta er í því falinn, ad

giøra

giøra ymsa smáſtíngi inn undir ytri húdina, med einum verkſærisoddi, sem vættur er í veſſanum úr kýrbóluvoſunum. Fedur, mædur og fóſtrur géta líka med ſtærſtu heppni ſett þeſſa bólu; naudſynlegt athygli, ad hún géti heppnaſt, er takmarkad af þeim hætti, med hverium ſtíngirnir eru giørvir, og af valinu á kýrbólumateriunni, og þad er ei torvelldt ad adgiæta þeſſar mikid einfelldar kríngumſtædur.

5) Annars fylgir kýrbólu-ſetníngunni alls engi háſki edur vandaſøm tilfelli; þad ſem verulega er afbrugdid med hana, er ætíd afſkamtad eptir þeim ſtad, hvar hún er ſett á, ſem útliſtanin yfir ſiúkdómſins framgáng enn lióſara ſkal ſannfæra leſarann um.

Søkum ſtíngganna er þad, ad hin næma materia kémſt inn undir ytri húdina, og þar ſtíngirnir eru harla ſmágierdir, og ei ſvo ad úr þeim blædi, ſvo hverſur ſkiótt úr þeim ell ſárſauka tilfinníng, og ſyna í fyrſtu einga ſérlega umbreytíng; en her um á 4da edur 5ta degi frá, verdur vart vid fyrſtu merki af ſérlegri verkan, og ſieſt á ytri húdinni litill óreglulegur þroti med lifandi og gliáandi roda, er vex ſmámſaman; og frá 6ta degi fær hann þá løgun, er einkénnir hann og verulega adgreinir frá øllum ødrum tilfellum. 1) hefir hann

hann afmarkad pláts, og er ad stærd sem færilús. 2) synir hann í midiu mikid audsiena laut edur hvilst med deckleitum lit. 3) Hanns Rønd (umhverfis ad ofanverdu) myndar úttútnadann hvítleitann og til hálfs gagnsæran hríng, sem er fullur med tæraun og litlausann vessa. 4) Hanns rætur eru umkríngdar med litlum raudum þrotahríng edur giørd. 5) Vessin í kyrbóluvoss hríngnum er ei, eins og í ødrum kylum og bólgu ærlum, útbreiddur og samansafnadur í hól, helldur innibyrgdur í samflettadann og smáholóttann nettresia vef, sem er einkar smásælldur, og myndar adskilin rúm edur blødruagnir. Framar: ef stúngid er gat á þetta vos, þá géfur þad ecki frá sér allt í einu, edur ølldúngis sinn vessa, helldur útsmitar hønum í smám dropum, og þad einúngis þadan, sem gatid er. A fylgiandi døgum verdur vosid enn nú stærra; þrotagiørdin minna raud, enn stærri um sig, og á 9da degi myndar hún breidann geislakrans med rósarlit, hvarmed fylgir spenna og bólga í þinnum særda lim. Stundum er samfara hiti, kládi og sárindi undir holhendinni. Endrum og sinnum er manni illt og finnur til kølldu hreifínga, sem þó allt innan skams lídur í burt aptur. á 12ta degi fer vosid í midjunni ad uppþorna, og þar myndast hál, svartleit skél edur skurn med verandi laut edur hvilst í midjunni, og skurnid fellur burt af

siálfu

siálfu sér, millum þess 21ta og 30ta dags, edur nockru seinna. Mikid sialdan brýtst kýrbólan út um allann líkamann, hvad ef skédur, hverfur þad ad fám døgum lidnum. Skickun og litur kýrbóluvossins á teldum ad-skilianlegum tímabilum siest af hiálegdu kopar-málverki.

## Reglur um Kýrbólu-Setníng.

I. Bólusetníngs stíngirnir eru almen-nilegast gierdir med lancetu; en þared þetta verkfæri verdur ei af ellum brukad med til-hlýdilegum fimleika, þá hafa sumir giert þessa stíngi med pennahnífsoddi, edur enda med saumnál, en þó þad vel megi med sérhveriu þessara verkfæra, þá samt er þó best þar til nál med fletum oddi, og beittum redum. Ad oddurinn sé breidur er betra í því tilliti, ad því stærri getur sá blettur ordid, sem taka skal í móti kýrbólu-materiunni, og þær beittu radir hiálpa til, ad hún gángi lidugar inn, og — annars ollir þad minni hrædslu og óro-semi hiá bernunum, ad siá eina nál, og losa ad stínga henni undir skinnid.

II. Þó ad stíngirnir megu gierast á alla líkamans parta, þá samt eru þeir giar-nast svaldir þar til, sem er vant ad hylia

edur

edur klæda, og umfram alla, sá partur upphandleggsins sem út veit.

III. Þegar búid er ad velia stadinn til setníngarinnar, og hann hefir verid lausliga núinn, til ad hreinsa ytri húdina, er nálaroddinum, dipt í kyrbóluvessann, og þá oddurinn er nóg þari vættur, ber madur hann ad ytri húdinni og belldur hønum fyrst lódréttum, svo vessinn kunni ad leita rétt nidur ad oddinum, strengir skinnid med hinni annari hendi, smeigir sídan nálinni beint áfram, svo hún þrædi miúkt og lipurlega inn undir ytri húdina, hér um bil svo lángt sem 2 strá, edur $\frac{1}{4}$ part þumlúngs edur litid meira; en til þess ad vessin komist vel inn í stínginn og festi sig þar nægilega, þá er nálaroddurinn hrærdur litid inn í stíngnum; dreginn fyrst litid eitt ad sér, og hleypt sídan inn aptur; því næst lyptir madur upp nálaroddinum (med þeirri skinnhimnu sem utan yfir hønum er), og lidkar hann til á ymsa vegu; ad lokum dregur madur nálina út aptur og þrýckir henni í því sama utan ad ytri húdinni. Þannig eru giørdir 2 edur 3 stíngir á hvorn handlegg; samt med þeirri varegd, ad hvert sinn sé nálaroddurinn vættur í vessanum, og látid vera tveggia edur þriggia fingra breidt bil milli stínganna. Hvervetna skal madur adgiæta,

ad

ad þeir séu giördir harla vidflatt edur grunnt á börnum, og þarámót nockru dýpra á fullordnum. Eptir sérhverria setníng, edur þegar mörgum skal setiast kýrbólan í senn med sama verfæri, á oddurinn náqvæmlega ad þerrast; sem annars kann audvelldlega fá spiöll af materíunnar skérpu, af hvöriu setníngin getur ordid torsókt og óviss.

IV. Pared þessa verknáds heppni einkum er undir vessanum komin, sem settur er inn undir skinnid, svo hlýtur hann ad veliast á hinni réttu tíd, er hann hefir feingid fullann þroska og krapt, sem útheimtist til þess, ad þessi sjúkdómur géti útbreisst og æxlast. Þetta tímabil er frá þeim 7da degi til hinns 11ta. ádur er vosid mjög litid varid, og vessinn í því ecki nógsamlega tilreiddur: á 12to degi tekur vessinn til ad verda allt of seigur; hann þornar sliótt; þessvegna hlýtur madur, nær hann vill setia þessa bólu, ad velia þá persónu, á hvörri kýrbóluvosid hefir fyrrtalin einkénni. Med nálaroddinum stíngur madur í hid hvítleita upphlaup edur full á einu þessara vosa; strax pípir út litill dropi af vessanum; í hann er nálaroddinum strax dýft, og því næst brúkast hann strax til setníngs stínganna. Líka skal adgiætast, ad ei sé tekinn vessi úr þeim vosum, sem ádur hafa opnud verid.

V.

V. Kýrbólan lætur í liósi ymsar umbreytingar í sínum framgángi, sem naudsynlegt er ad þeckia: stundum siást vosin ecki, fyrr enn þann 9da, 11ta, já, enda ecki fyrr enn þann 20ta edur 28da dag eptir setnínguna, en seu þau vel einkénnileg, og syni á sér þinn útlistada framvøxt, er madur eins óhultur fyrir smáu-bólunni. Þarámóti eru stínginnir endrum og sinnum sárir þann 1sta, 2an edur 3ia dag eptir setnínguna; og þar med er samfara meir edur minna lifandi og sollinn þroti, er stundum fylgist ad med køldu og sárinduin undir holþendinni; þar myndast ein bladra, sem er full med vog, er annadtveggia þornar ad fám døgum, edur verdur ad virkilegu sári. Þetta tilfelli, sem rís af alt of sárri og lifandi vidqvæmni í limnum, er enganvegin kýrbóla, og synir hverki hennar einkénni, ne rétta eiginleika. Hún kallast ó e k t a k ý r b ó l a, og þeckist audveldlega. 1) Af því þinnar ertandi vidqvæmnis og bólgnunar tilfelli koma næstum siálfkrafa eptir setnínguna, og tilkynna ecki kýrbólunnar lángsama treppu gáng. 2) Af mynd vossins, þared þad í stadinn fyrir ad vera nidurskotid í midiunni, er uppþátt med topp edur kolli. 3) Af vessans náttúru, sem ístadinn fyrir ad vera þunnur, er þyckur, hvítleitur, blódkorgugur og grefstrar blandinn. 4) Af því þann þornar svo

skiótt.

skiótt. 5) Og ad sídustu af því, ad vessinn í þessum tilfallandi vosum er ecki innibyrgdur í samslæktum smáhólóttum vef, heldur slær sér út undir ytri húdinni, og rennur burt ad øllu leiti, enda gégnum minsta op. Ad kyrbólan verdur svo úrkynia edur úrætt frá því retta, skédur einkum, þegar brúkud er til setníngarinnar ofþyckt og vidqvæmmina ysandi bóluefni, sem tekid er af þeim vosum, sem farinu eru ad þorna; en hiá øllu þessu má sneida, þegar vessinn er tekinn fyrr en á 11ta degi af rétt audkéndu vosi, og brúkadur strax á medan hann er sliótandi og þunnur.

VI. Þó almennast séu giørdir 4 edur 5 stíngir, þá kémur opt ei utan eitt einasta vos, en þarsem þad er vel einkennt og fylgir siúkdómsinns reglulega gangi, svo er þad nóg til ad veria barnabólu. Astundum sést eckert vos, og þá er madur neyddur til ad ítreka setnínguna.

VII. Madur verdur svo mikid sem møgulegt er, ad hindra børnin frá ad rífa edur klóra í kyrbóluvosin, einkum þann 9da og 10da dag, þá hinn ádur umgétni geisla-krants myndast, hvøriun ad fylgir bólga; því af naglaklori getur sóttnæmid hæglega komist annadhvørt í augun, edur adra parta

líka.

likamans, hvar sídst skyldi, sem reynslan hefir sýnt; líka orsakar stundum þvílík vidqvæmi ertíng á þessu tímabili lítid sár, sem nockra daga vidnærir graftrarblandinu vogvessa, er lætur sig fliótt lækna, med því ad leggia daglega þará lín-klút, þunnt makadann í gódri og ferskri tólg.

VIII. Vissust og best er setningin ætíd, þegar hinu ferski kýrbóluvessi verdur strax tekinn af eins manns handlegg og settur í annann mann. En þegar þad getur ei látid sig giøra, edur materian hlytur ad sendast frá einum Stad í annann, þá verdur henni best safnad, og hún geymd á fylgiandi hátt: madur tekur 2 smáar, slípadar, jafnstórar glasplotur, hvørra ønnur hlytur ad hafa slípada laut í midjunni, ad stærd sem særilús, og í hana er kýrbóluvessanum safnad; hin platan verdur ad hafa merki utan á sér, til ad þeckia hina frá, er geimir vessann. Þegar safna skal kýrbóluvessanum, er opnud ein edur fleiri vel fullar kýrbólur, og safnad þá med láncetuedur litills eyrnaskefills-oddi vessanum, sem útsmitar úr því ástúngna gati, sem látinn er strax driúpa í lautina á glasplotunni, og ítrekast svo opt, sem vessinu siest koma, uns ad lautin er full ordin, er þá hin platan strax løgdd ofan yfir, og á beggia þeirra radir lagdur vidlodandi plástur, sem er yfirbræddur

med

med lacki. Reinslan hefir sýnt, ad vessinn á þennann hátt gétur vardveitst nockra mánudi.

IX. Ecki megu gløsin opnast fyrr enn í sama augnabliki, sem setníngin skal ské. Lackid og plásturinn eru tekin frá, og þared glasplöturnar eru optast ordnar ærid samfastar, verda þær sundurskildar med því móti, ad smeygia litlum þunnum kníf á millum þeirra. Bóluefnid sem er í lautinni á glasinu, er uppbleitt í volgu vatni, sem er hrært upp med litlum tannstaungli, er sídan tekid uppá lánsettu edur nálar oddi, og brúkast til setníngarinnar, eptir ádursøgdum hætti. Framsýni krefur þess: ad í fyrsta sinn sé setníngin fyrirtekin á 2 edur 3 persónum; því, ef hún þá skyldi luckast á einum þeirra, gétur madur nýtt sér af þessum glænýa kýrbóluvessa til ad brúka hann framar, og hvørn 9da edur 10da dag, byria setníngu á ødrum.

Kaupmannahøfn, i þeirri, áhrærandi kýrbólu-setníng, allranádugast tilsettu nefnd þann 10da April 1802.

*Aaskow. Guldbrand. Callisen.*
*Winslöw. Wiborg.*

---

Hrúd-

* * *

Med því Vaccinations nefndin hefir sídan komiz ad raun um þat, at bólu hrudurs eda skurnar-brúkan, verkar vid bólusetninguna engu sídur enn bolu efnid siálft; svo vilium ver med fám ordum syna og segia hversu nefndr hrúdur skal hagnytaz: nefniliga, hrúdurin eda skélin af kyrbólunni, sem optast losnar af þan 20 eda 23 dag, frá því bólan var innsett, og hvar af litid geymiz i hvilst glassins, brúkaz á þann hátt; menn steyta hrúdrinn med triestauti í litlu steinmorteli, eda sie þat þat ei vid hendina, þá í porcelins undirskál: sídan veqvaz hrúdr-mylsnan med fám dropum af volgu vatni, og hræriz so hvad med ødru saman: ad því giordu, tekz litid af því á lancetu-eda bólunálar oddi, og brúkaz sem hid fyrra kyr-bólu efni.

